# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, JÚLÍ 1900. Nr. 5.

## Sextánda ársþing

hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi kom saman í kirkju Selkirk-safnaðar fimmtudaginn 21. Júní 1900 kl. 10 árdegis. Fyrst var sunginn kirkjufundar-sálmrinn nr. 617 í sálmabókinni; síðan flutti séra Rúnólfr Marteinsson prédikan út af 1. Kor. 3, 9—13, og að því búnu var þingið sett af forseta kirkjufélagsins, séra Jóni Bjarnasyni, samkvæmt hinu venjulega þingsetningar-formi.

Í nefnd til að veita móttöku kjörbréfum erindsreka og taka á móti afsökunum frá söfnuðum þeim, er ekki kynni að hafa sent erindsreka, útnefndi forseti: Bjarna Jones, W. H. Paulson og Jón Þórðarson.

Forseti lagði fram svo hljóðandi skýrslu yfir söfnuði, presta og embættismenn kirkjufélagsins:

I. *Söfnuðir:*—Marshall-söfnuðr, St. Páls-söfnuðr, Vestrheims-söfn., Lincoln-söfn., Garðar-söfn., Þingvallasöfn. (N.-D.), Fjallasöfn., Víkrsöfn., Hallson-söfn., Pétrssöfn., Vídalínssöfn., Grafton-söfn., Pembina-söfn, Fyrsti lút. söfnuðr í Winnipeg, Fríkirkju-söfn., Frelsis-söfn., Brandon-söfn., Þingvallanýl.-söfn., Selkirk-söfn., Víðinessöfn., Árnessöfn., Brœðra-

söfn., Fljótshlíðarsöfn., Mikleyjarsöfn., Melanktons-söfn. og St. Jóhannesar-söfn.

II. *Prestar og embættismenn:* séra Jón Bjarnason, forseti; séra Friðrik J. Bergmann; séra N. Steingrímr þorláksson, varaforseti; séra Jónas A. Sigurðsson; séra Björn B. Jónsson, skrifari; séra Oddr V. Gíslason; séra Jón J. Clemens, varaskrifari; séra Rúnólfr Marteinsson; Jón A. Blöndal, féhirðir.

Fundi frestað til kl. 2 e. m.

2. fundr, sama dag kl. 2 e. m.

Fyrst voru sungin tvö vers af sálminum nr. 201.

Kjörbréfanefndin lagði fram skýrslu sína. Samkvæmt henni áttu þessir erindsrekar sæti á kirkjuþinginu: Bjarni Jones og Gunnar B. Björnsson, frá St. Páls-söfnuði; Sigbjörn S. Hofteig, frá Vestrheims-s. ;Arngrímr Jónsson, frá Lincoln-s. ; Stefán Eyjólfsson og dr. Móritz Halldórsson, frá Garðar-s. ; Jóhannes Magnússon, frá þingvalla-s. (N.-D.) ; Sveinn Sölvason, Tómas Halldórsson og Jósef J. Myres, frá Víkr-s. ; Gunnar Jóhannsson, frá Pembina-s. ; Magnús Paulson, Wilhelm H. Paulson, Guðmundr P. þórðarson og Ólafr S. þorgeirsson, frá Fyrsta lút.s. í W.peg; Björn Sigvaldason, frá Fríkirkju-s. ; Kristján Sigmarsson, frá Frelsis-s. ; Jóhannes Einarsson, frá þingvallanýl.-s. ; Klemens Jónasson og Gestr Jóhannsson, frá Selkirk-s. ; Eiríkr Jóhannsson, frá Víðines-s. ; Helgi Ásbjarnarson, frá Mikleyjar-s. ; Jón þórðarson, Bjarni Pétrsson og Bjarni Ó. Jóhannsson, frá Vídalíns-s. ; Daníel Jónsson, frá Hallson-s., og Tryggvi Ingjaldsson, frá Pétrs-s. *).

Afsakanir voru bornar fram frá St. Jóhannesar-söfnuði í Manitoba, söfnuðunum í Marshall og Grafton og Árnes-söfn.

Skýrslan frá nefndinni var samþykkt, en jafnframt var nefndinni falið, að halda áfram starfi sínu, að því er snerti ókomna erindsreka.

þá rituðu allir prestar og erindsrekar undir hina venjulegu játning, svo hljóðandi :

---

*) Síðar á þinginu bættust við þessir erindsrekar : Bjarni Marteinsson, frá Bræðrasöfnuði, og Gunnlaugr E. Gunnlaugsson, frá Brandonsöfnuði, eins og síðar segir frá; enn fremr Benedikt Frímannsson, frá Gimli-söfnuði, eftir að inngangа þess safnaðar hafði samþykkt verið.

„Vér undirritaðir, prestar og kirkjuþingsmenn, endrtökum hér með hina lútersku trúarjátning safnaða vorra, er vér sem meðlimir hinnar lútersku kirkju höfum áðr gjört, og skuldbindum oss hátíðlega til að starfa á þessu þingi og heima í söfnuðum vorum að þeim málum, sem hér verða samþykkt, samkvæmt grundvallarlögum kirkjufélagsins og tilgangi þeirra.“

Eftir tillögu Klemens Jónassonar var nú vikið frá dagskrá og tekin fyrir beiðni Gimli-safnaðar um inntöku í kirkjufélagið. Stutt og samþykkt.

Séra Rúnólfr Marteinsson las þá upp og lagði fram umsókn frá Gimli-söfnuði um inngöngu, svo og grundvallarlög þess safnaðar.

Þingið veitti Benedikt Frímannssyni, kjörnum erindsreka frá Gimli-söfnuði, með atkvæðum leyfi að tala í málinu.

Eftir stuttar umrœður bar Bjarni Jones fram tillögu, sem studd var af Sigbirni S. Hofteig, um það, að Gimli-söfnuði væri veitt innganga í kirkjufélagið, og var sú tillaga samþykkt mótmælalaust.

Eftir tillögu frá séra Jónasi A. Sigurðssyni var Sigurði Sölvasyni frá Pétrssöfnuði veitt málfrelsi á þinginu; sömuleiðis Jóni Sigurðssyni frá Lincoln-söfn. eftir tillögu séra Björns B. Jónssonar; og enn fremr Jóhannesi S. Björnssyni frá Þingvallasöfn. eftir tillögu séra Friðriks J. Bergmanns.

Kjörbréfa-nefndin skýrði frá, að Benedikt Frímannsson hefði lagt fram skýrteini um lögmæta kosning sína sem erindsreki Gimli-safnaðar.

Þingið samþykkti enn fremr að veita málfrelsi þeim húsfrú Þorbjörgu Paulson og Birni Sigvaldasyni frá Gimli-söfnuði og Sigrjóni Sigmarssyni frá Frelsissöfnuði.

Kjörbréfa-nefndin skýrði frá, að til þings væri kominn Bjarni Marteinsson, erindsreki frá Brœðrasöfnuði, og að hann hefði lagt fram vottorð um löglega kosning sína.

Þar næst las forseti, séra Jón Bjarnason, ársskýrslu sína, þannig hljóðandi:

*Ársskýrsla forseta.*

Á kirkjuþingi í fyrra var St. Jóhannesar-söfnuði í Pipestone-byggð hér í Manitoba veitt innganga í kirkjufélagið.

Áðr voru 25 söfnuðir í kirkjufélaginu. Alls eru því söfnuðir félagsins nú 26, eins og safnaðaskráin, sem þegar hefir verið lögð fram, sýnir.

En nú koma umsóknir um inngöngu í kirkjufélagið frá sex söfnuðum, þeim, er nú skal greina: Lúterssöfnuði í Roseau-byggð í Minnesota, Guðbrandssöfnuði í Skálholtssveit í Manitoba, Alberta-söfnuði í Alberta, Gimli-söfnuði í Nýja Íslandi, Breiðuvíkrsöfnuði í sömu byggð, og St. Jóhannesar-söfnuði—öðrum — í Fjallabyggðinni í Norðr-Dakota. Ef kirkjuþing þetta veitir beiðendum þessum öllum inngöngu, eins og það væntanlega gjörir, verðr tala safnaðanna í kirkjufélaginu þannig 32.

Prestar kirkjufélagsins eru hinir sömu — 8 — eins og í fyrra. Enginn nýr hefir síðan bœtzt við. Við séra Friðrik J. Bergmann lögðum á stað til Íslandsferðar í fyrra í Maí, eins og yðr öllum mun kunnugt, og komum aftr úr þeirri ferð í Október. Séra Rúnólfr Marteinsson, sem þjónaði Fyrsta lút. söfn. í Winnipeg meðan eg var burtu, var samkvæmt vilja síðasta kirkjuþings undir eins og því starfi hans var lokið ráðinn sem missíónarprestr fyrir kirkjufélagið. Og hefir hann á þann hátt beinlínis verið í þjónustu þess síðan. Séra N. Steingrímr Þorláksson, sem um nokkur undanfarin ár hefir átt heima í Park River í Norðr-Dakota og þjónað þar norskum söfnuðum, fékk prestsköllun frá söfnuðinum íslenzka hér í Selkirk þegar í haust, og er nú, snemma í þessum mánuði, alfluttr hingað og setztr hér að. Áðr hefir hann ferðazt hingað nokkrum sinnum og dvalið hér hjá söfnuðinum um hríð í hverri ferð. Er oss það víst öllum stór-mikið fagnaðarefni að hafa á þennan hátt aftr fengið hann algjörlega til samvinnu með oss að kristilegri uppbygging þjóðflokks vors. Hinir prestarnir allir eru þar sem þeir voru áðr. En séra Jón J. Clemens var burtu frá söfnuðum sínum í Argyle-byggð mánaðartíma í vetr með samþykki þeirra á ferð suðr í Bandaríkjum. Og séra Björn B. Jónsson sömuleiðis burtu frá sínum söfnuðum í Minnesota hér nyrðra, í Winnipeg, hálfsmánaðartíma eða rúmlega það til þess að vinna fyrir skólamál kirkjufélagsins.

Að missíónarverki hefir af hálfu kirkjufélagsins all-mikið verið unnið á þessu ári, meira en nokkurn tíma áðr. Og hefir sú starfsemi borið gleðilega mikinn ávöxt, sem sýnir sig í því, að svo margir söfnuðir sœkja nú um inngöngu í kirkjufélagið. Aðal-starfsmaðrinn að þessu verki hefir séra Rúnólfr Marteinsson eðlilega verið.—Fyrstu missíónarferðina fór hann til Nýja Íslands að áliðnum Októbermánuði. Hann fór um allan þann hluta byggðarlagsins, er á meginlandi liggr, prédikaði þar á ýmsum stöðum og vann önnur prestsverk. Kom hann aftr úr þeirri ferð seint í Nóvember. Aðra ferð þangað fór hann í Febrúar og kom þá í Mikley, en þó tók þessi ferð hans skemmri tíma en hin fyrri. Auk hinna tveggja nýju safnaða í Nýja Íslandi, sem nú sœkja um inngöngu í kirkjufélagið, var sá árangr af þessum missíónarferðum, að þrír gamlir söfnuðir, sem í orði kveðnu höfðu verið þar, félagi voru tilheyrandi, en í seinni tíð legið í algjöru dái, voru endrreistir. Nöfn þeirra eru: Víðinessöfnuðr, Árnessöfnuðr og Fljótshlíðarsöfnuðr, sem nú er farinn að kalla sig Geysissöfnuð. Og nú hafa þessir þrír endrreistu söfnuðir ásamt hinum tveim nýju, er inngöngu beiðast í kirkjufélagið, sent séra Rúnólfi prestsköllun, sem hann hefir þegar tekið, þó upp á það, að koma ekki til þeirra sem fastr prestr fyrr en með næsta nýári.—Til Íslendingabyggðarinnar vestr í Alberta fór hann missíónarferð seint í Desember og dvaldi þar fram í Febrúar. Út af starfsemi hans í þeirri byggð myndaðist Alberta-söfnuðrinn, sem er einn hinna nýju safnaða, er nú leita inngöngu í félag vort. Á leiðinni vestr prédikaði séra Rúnólfr í kirkju Brandon-safnaðar og á leiðinni tilbaka í Calgary fyrir smáhópi Íslendinga, er þar býr. — Álftavatns-nýlendu og Grunnavatns-nýlendu í Manitoba heimsótti hann seint í Marzmán., en gat að eins mjög stuttan tíma dvalið þar í það sinni, því hann var ráðinn til safnaðarins í Þingvallanýlendu í Assiniboia frá 1. Apríl um tveggja mánaða tíma í bráð. Og þar dvaldi hann hinn ákveðna tíma. Þó fékk hann tœkifœri til þess snöggvast, meðan hann hafði aðsetr í Þingvallanýlendu, að bregða sér í missíónarerindum langt þaðan vestr í land, til ýmsra staða, þar sem nokkrir Íslendingar búa, Saltcoats,

Yorkton, White Sand River og Foam Lake, og prédikaði hann á tveimr af þessum stöðum.—Síðan í byrjan Júnímánaðar hefir hann dvalið í Winnipeg og þjónað Tjaldbúðarsöfnuði, og er svo um samið af vorri hálfu, að kirkjufélagið sjái um laun hans fyrir þjónustustarf hans þar þennan tíma. En þar á móti borgar Þingvallanýlendu-söfnuðr séra Rúnólfi fyrir þá þjónustu, er hann veitir því fólki.—Um missíónarstarfsemi séra Rúnólfs allt til þess tíma, er hann fór til Þingvallanýlendu, eru nákvæmar skýrslur frá honum prentaðar í ,,Sameiningunni''.

Það missíónarverk, sem hinum prestunum í kirkjufélaginu var falið á hendr á síðasta kirkjuþingi, hefir, að því, er eg bezt veit, verið unnið eins og fyrir var lagt, og þó nokkuð meira verið gjört í þá átt af sumum en þá kom til orða.

Séra Jón J. Clemens ferðaðist í haust—seint í September og snemma í Október—til Þingvalla-nýlendu og Lögbergs-byggðar, Vatnsdals-byggðar (Qu'Appelle), Laufásbyggðar (Pipestone) og Brandon, og prédikaði á öllum þessum stöðum. Skýrsla um þessa missíónarferð frá honum sjálfum er í ,,Sam.'' (XIV, 10). Aðra slíka ferð fór hann til hinna tveggja síðastnefndu Íslendinga-stöðva nú rétt á undan þessu kirkjuþingi. Í vetr, þegar hann brá sér suðr í Bandaríki, prédikaði hann fyrir Íslendingum í Chicago.

Séra Jónas A. Sigurðsson heimsótti Melanktons-söfnuð í Mouse River-byggð í Norðr-Dakota í Júlímánuði í fyrra, og svo aftr á síðastliðnu vori seint í Apríl. Í Ágúst ferðaðist hann til Roseau-byggðar nyrzt í Minnesota, en það íslenzka landnám hefir nú fœrzt út norðr fyrir landamærin, inn í Canada. Sá varð meðal annars árangr af þeirri ferð, að þar myndaðist Lúterssöfnuðr, einn hinna nýju safnaða, er nú leitar inngöngu í kirkjufélagið. Fjórðu missíónarferðina fór séra Jónas snemma í Apríl til nýbyggðarinnar íslenzku í Manitoba syðst, í nánd við bœinn Morden, með þeim árangri, að þar var söfnuðr myndaðr—Guðbrandssöfnuðr.—Frá þremr af þessum ferðum hefir séra Jónas rœkilega skýrt í ,,Sam.'' (XIV, 7 og XV, 3).

Séra Oddr V. Gíslason hefir samkvæmt skýrslu frá hon-

um til skrifara kirkjufélagsins, auk ferða um Nýja Ísland, á síðastliðnu sumri farið í missíónarerindum til Íslendinga við Swan River og Winnipegosis, á vestrströnd Manitoba-vatns og við Narrows. Og þótt ekki sé þess getið í þeirri skýrslu, þá er mér kunnugt, að hann hefir einnig heimsótt Íslendinga í Keewatin.

Séra Björn B. Jónsson hefir, eins og til var ætlazt, heimsótt Íslendinga í Duluth, Chicago og Watertown.

Séra Friðrik J. Bergmann ferðaðist í Maí til Íslendinga þeirra, er í seinni tíð hafa setzt að í Cavalier county vestanverðu (N.-D.), og leiddi sú ferð hans til þess, að þar myndaðist St. Jóhannesar-söfnuðr, sá er áðr var nefndr.

Samkvæmt ályktan síðasta kirkjuþings sendi skrifari kirkjufélagsins — mjög skömmu eftir þinglok — séra Stefáni Pálssyni prestsköllun í félagsins nafni upp á kjör þau, er þingið tiltók. En sú köllun varð árangrslaus. Skrifari skýrir væntanlega þessu kirkjuþingi frá svari séra Stefáns.

Á síðastliðnu vori ritaði eg bréf til dr. Jacobs, forstöðumanns prestaskólans lúterska í Philadelphia, til þess að einu leyti að láta hann vita, að vér hefðum fegnir viljað fá séra Stefán, sem í fyrra útskrifaðist frá þeim skóla, til þess að vinna hér vestra fyrir kirkjufélag vort, og í annan stað til þess að vita, hvort hann vildi ekki gjöra svo vel að styðja að því, að Gunnlaugr Jónsson, annar ungr Íslendingr héðan að vestan, sem nú stundar þar guðfrœðisnám, heimsœkti oss á þessu sumri til þess svo framvegis að gjörast hér kirkjulegr starfsmaðr. Eg hafði nefnilega fengið að vita, að dr. Jacobs hefði það fyrir satt, að vér hefðum í fyrra ekki neitt þurft á séra Stefáni að halda. Þann misskilning vildi eg leiðrétta, en jafnframt, ef unnt væri, koma í veg fyrir það, að vér misstum af Gunnlaugi á sama hátt og vér höfum nú misst af séra Stefáni. Dr. Jacobs tók vel undir bréf mitt, og fékk eg því von um, að Gunnlaugr yrði til vor fáanlegr. Í samráði við skrifara og féhirði kirkjufélagsins og aðra fleiri sendi eg honum því áskoran um að koma hingað vestr og vinna hjá oss að kirkjulegu starfi um sumarmánuðina upp á ákveðin laun og borgun fyrir ferðakostnað. En hann hefir enn þá ekki svarað þeirri

áskoran einu orði. *) Svo von sú, er vér ýmsir gjörðum oss um að ná í hann, sýnist orðin að engu. Er slæmt til þess að vita, að vér, sem þörfnumst nú svo mjög fleiri kirkjulegra starfsmanna, skulum þannig missa frá oss einn eftir annan af hinum ungu mönnum, er frá oss hafa út gengið til þess að undirbúa sig til prestskapar—meðal landa sinna, eftir því, er upphaflega var til ætlazt. Ef til vill er þetta ,,ódugnaði vorum" að kenna að einhverju leyti, eins og ályktað var á síðasta kirkjuþingi. En því verra er það þá fyrir oss.

Bréfið til dr. Jacobs ásamt svari hans, svo og tilboðið, sem eg sendi Gunnlaugi Jónssyni í kirkjufélagsins nafni, skal eg hve nær sem menn vilja leggja fram hér á þinginu.

Eins og til var ráðið á síðasta kirkjuþingi ferðaðist séra N. Steingrímr Þorláksson sem *fraternal delegate* frá oss til stórþings þess, er *General Council*-menn héldu í haust í Chicago hinn 28. September og næstu daga. Og var séra Björn B. Jónsson, sem kjörinn var varamaðr hans, með honum í þeirri sendiför. Þér hafið líklega allir lesið ritgjörð eftir séra Steingrím í ,,Sam." (XIV, 11 og 12, og XV, 1), langa og vandaða, um þessa ferð þeirra. En annars skýra þeir væntanlega frekar frá ferð sinni hér á þinginu.

Að því, er snertir inngöngu kirkjufélags vors í *General Council*, þá skilst mér þó, að áhuginn á því máli sé nú engu meiri vor á meðal en í fyrra. Nefndin, sem í því var sett á síðasta kirkjuþingi, réð meðal annars til þess, að grundvallarlög og aukalög General Councils væri þýdd og prentuð í ,,Sam.", og þetta var samþykkt af þinginu. En enginn hefir sent blaðinu lögin þýdd, og finnst mér það benda til þess, að fremr lítil áherzla hafi verið lögð á þá ályktan af kirkjuþingsmönnum, líka af nefndarmönnunum. Líklega hefði eg þó sjálfr snúið lögunum á íslenzku og sett þau svo í blaðið, ef ályktanin hefði ekki farið fram hjá mér þangað til of seint var orðið fyrir þetta kirkjuþing. Annars eru ,,Meginreglur General Councils með tilliti til trúar og kirkjustjórnar" fyrir löngu

*) Seinna, meðan stòð á kirkjuþinginu, fékk forseti skriflegt svar uppá áskoran þessa, en í þá átt, að Gunnlaugr Jònsson gæti ekki komið. Og var þá tafarlaust skýrt frá því svari á þinginu.

þýddar á íslenzku og komnar út í „Sam." (XI, 3), og það er einmitt aðalatriðið í grundvallarlögum þess kirkjufélags, sem almenningi í söfnuðum vorum ætti að geta dugað í bráð. Í ársskýrslu forseta í fyrra var skýrt tekið fram, hvað helzt kynni að mæla á móti því, að vér leituðum inngöngu í General Council. En svo þykir mér líka ekkert undarlegt, þótt menn hiki sér nú heldr meir en áðr í þessu máli út af því, sem komið hefir fyrir með hina tvo íslenzku guðfræðinga, er áðr hafa verið nefndir. Og eg fyrir mitt leyti þori með engu móti að ráða til inngöngu nú þegar.

Samtalsfundir út af kristilegum trúmálum hafa á árinu verið haldnir á 11 stöðum. Í kirkju Víkrsafnaðr var slíkt fundarhald 27. Nóv., í kirkju Vídalínssafnaðar 28. s. m., í kirkju Hallson-safnaðar 29., í kirkju Garðar-safnaðar 30. Á þeim fundum öllum var rœtt um *aftrhvarfið* og sex af prestum kirkjufélagsins þar viðstaddir. Dagana 4.—7. Des. voru samtalsfundir í kirkjum Vestrheimssafnaðar, Lincoln-safnaðar, St. Páls-safnaðar og Marshall-safnaðar. Á tveim þeirra funda var rœtt um *samband kristinna manna* eða *samfélag heilagra*, en á hinum tveim um *skírnarsáttmálann*. Þrír prestar á þeim fundum öllum. Hér í kirkju Selkirk-safnaðar var á fundi 31. Jan. rœtt um kristilegt *barna-uppeldi*, en á þeim fundi voru að eins tveir prestar. Í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg var samtalsfundr 2. Febr. Umrœðuefni þar *bœnin*. Þrír prestar þar viðstaddir. 6. Febr. höfðu söfnuðurnir í Argyle samtalsfund í kirkju sinni með fjórum prestum, og var þar rœtt um *aftrhvarfið*. Fundir þessir voru nokkuð misjafnt sóttir. Hluttaka leikmanna í umrœðunum ekki svo mikil sem óskanda hefði verið. En vafalaust hafa þessir fundir verið safnaðarfólki til talsverðrar uppbyggingar, og allsstaðar hafa þeir mælzt vel fyrir.

Skólamálinu hefir lítið þokað áfram á þessu ári, en eftir því, sem um það var búið á síðasta kirkjuþingi, var nálega að því vísu að ganga, að árið þetta, sem síðan er liðið, myndi að því, er það snertir, verða biðarár. Skólamálsnefndin hefir, og það víst með réttu, talið sig vanta heimild til að eiga neitt við fjársöfnun meðal Íslendinga. En þannig má með engu

móti framvegis binda hendr þeirra, er kosnir verða til að standa fyrir því stór-þýðingarmikla máli. Hér eftir verðr kappsamlega að vinna að því, að safna fé í skólasjóð í öllum söfnuðum vorum, án alls tillits til þess, hvar hinum fyrirhugaða skóla kann á endanum að verða ákveðinn staðr. Eftir tilraunina, sem skólanefndin gjörði í vetr, til þess að leita stuðnings hjá efnuðum mönnum af annarra þjóða fólki í Winnipeg, er sönnun komin fram fyrir því, að þaðan er lítil eða engin hjálparvon og að vér Íslendingar hljótum því aðallega í máli þessu—fyrst um sinn að minnsta kosti — að spila upp á vorar eigin spýtur. Annars gjörir skólanefndin sjálf þinginu grein fyrir starfi sínu og leggr skriflega fram nákvæma skýrslu skólasjóðnum viðvíkjandi. Gott er til þess að vita, að mjög vel og vandlega hefir af nefndinni verið búið um fé það allt, er skólasjóði tilheyrir.

Meðan stóð á kirkjuþingi í fyrra voru tvær kirkjur vígðar af séra N. Steingrími Þorlákssyni, varaforseta kirkjufélagsins, með aðstoð hinna prestanna, sem sátu á því þingi: kirkja Pétrssafnaðar og kirkja Hallson-safnaðar (þar sem þingið var haldið), báðar sunnudaginn 29. Júní. Með aðstoð þeirra séra Friðriks J. Bergmanns og séra Björns B. Jónssonar vígði eg sunnudaginn 3. Des. hina nýju kirkju Lincoln-safnaðar. Og nú næstkomanda sunnudag, meðan þetta kirkjuþing stendr yfir, verðr væntanlega vígð hin endrreista kirkja safnaðarins hér í Selkirk, þar sem vér nú erum saman komnir.

Um bandalög þau, sem þegar eru komin á fót í söfnuðum kirkjufélagins, og um sunnudagsskóla vora þarf eg ekkert að segja nú fyrir þá sök, að í sambandi við þetta kirkjuþing á, samkvæmt því, sem áðr er ályktað, að halda sérstaka fundi út af hvorritveggja þeirri kirkjulegu starfsemi.

Nefndin, sem í fyrra var kosin til þess að undirbúa útgáfu nýrrar sálmabókar, hefir frá engum framkvæmdum að segja enn sem komið er; enda mun naumast hafa verið búizt við því, að hún gæti neitt verulegt gjört á þessu ári. Hér er líka um það mál að ræða, sem að skaðlausu virðist mega bíða enn um hríð. Væntanlega verðr því þó eitthvað hreyft hér á þinginu, og mun þá nefnd þessi frekar láta til sín heyra.

,,Sameiningin", hið upphaflega málgagn kirkjufélagsins, heldr áfram að koma út eins og áðr, svo og ,,Kennarinn", sem gefinn hefir verið út sunnudagsskólamálinu til stuðnings, og enn fremr ársrit prestanna ,,Aldamót". En rit þessi hafa öll miklu minni útbreiðslu en óskanda væri, og sumir eru farnir að hafa það fyrir satt, að þau sé hvert öðru í vegi. Ef til vill gæti virzt ráðlegt, að sameina þau öll í eitt einasta tímarit, sem þá væntanlega yrði keypt og lesið af langtum fleiri en nokkurt einstakt þeirra getr orðið, eftir reynslu þeirri að dœma, sem vér höfum haft í liðinni tíð. Ýmsir hængir eru þó á því, að gjörlegt sé að sameina rit þessi. Og vil eg því ekki gjöra það að beinni tillögu. En að því, er snertir ,,Sameininguna", sem er hið eina af tímaritum þessum, er beinlínis er haldið úti í kirkjufélagsins nafni, þá er það ómynd, að hagr þess blaðs skuli ekki enn—eftir fjórtán ár — standa betr en svo, að það að eins með hörkubrögðum getr borgað prentunarkostnað sinn. Það, sem þar er að, er þó sannarlega ekki að kenna féhirði blaðsins, sem hefir gjört sér far um að hlynna að því með öllu hugsanlegu móti.

Reformazíónarinnar lútersku hefir á seinni árum, samkvæmt bendingum kirkjuþinganna, víða í söfnuðum vorum verið minnzt með sérstökum hátíðaguðsþjónustum, og þeim samfara dálítil offr missíónarmáli kirkjufélagsins til stuðnings. Féhirðir gjörir í ársskýrslu sinni grein fyrir fé því, er inn hefir komið úr ýmsum áttum sem ávöxtr af þessum sérstöku guðsþjónustum.

Bókasafn kirkjufélagsins er enn eins og áðr samkvæmt ráðstöfun skólamálsnefndarinnar í mínum vörzlum. Á þessu ári hefir því nálega ekkert gefizt af bókum, og auðvitað ekki heldr neitt verið keypt, þar sem alls ekkert fé hefir til þess verið veitt. Eg vildi nú leggja það til, að veitt yrði á kirkjuþingi úr félagssjóði ofr lítil fjárupphæð í þessu skyni eða þá til bókbands, — svo sem 20 dollars til að byrja með. Bókaeignin er votryggð fyrir eldi og hefir verið þessi síðustu ár.

Í fyrra hafði gleymzt á kirkjuþingi að veita séra Oddi V. Gíslasyni fyrirhugaða þóknan fyrir missíónarstarf á árinu næsta á undan. Upp á væntanlegt samþykki kirkjuþings ávísaði svo

varaforseti skömmu síðar 25 doll. til útborgunar úr félagssjóði í þessu skyni. En fyrir missíónarstarf, er unnið hefir verið á þessu ári, hefir alls ekkert verið borgað nema hin ákveðnu laun séra Rúnólfs Marteinssonar. Á hinn bóginn hefir nokkurt fé komið inn til kirkjufélagsins úr hinum ýmsu byggðum, sem hann í missíónarerindum hefir heimsótt á árinu. Í þetta skifti má kirkjuþingið ekki gleyma því að veita séra Oddi einhverja þóknan fyrir starf hans, það því síðr sem tekjur hans hafa vafalaust á þessu ári farið minnkandi og heilsa hans er ekki eins sterk nú og áðr.

Það, sem vangjört er af mér fyrir kirkjufélagið, bið eg yðr alla að fyrirgefa. En þá ríkulegu blessan, sem streymt hefir inn í kirkju vora á þessu ári frá góðum guði, þrátt fyrir allan vorn ófullkomleik og syndsamlega vesaldóm, er oss öllum með hrœrðum hjörtum skylt að þakka í nafni frelsara vors Jesú Krists.

---

Í nefnd til að íhuga ársskýrslu forseta voru kosnir: séra Friðrik J. Bergmann og séra Björn B. Jónsson; og samkvæmt tillögu frá séra Jóni J. Clemens var sömu nefnd falið á hendr að veita málum viðtöku og raða þeim á dagskrá.

Séra Björn B. Jónsson, skrifari, skýrði frá, að hann hefði samkvæmt fyrirmælum síðasta kirkjuþings látið prenta 300 eintök af lögum kirkjufélagsins; sömuleiðis hefði hann samkvæmt skipan þingsins í fyrra keypt eitt eintak af ,,Robert's Rules of Order" handa kirkjufélaginu. Enn fremr skýrði hann frá, að hann hefði samkvæmt því, sem honum var falið, sent séra Stefáni Pálssyni köllunarbréf í nafni kirkjufélagsins, og væri svar séra Stefáns við höndina, ef menn vildi heyra; en efni þess væri það, að hann (séra Stefán) sæi sér ekki fœrt að sinni að verða við ósk kirkjufélagsins. Bréf hans væri mjög bróðurlegt og lýsti hlýjum hug til kirkjufélagsins.—Skrifarinn gat þess, að hann gæti ekki að svo stöddu lagt fram skýrsluna um fólkstal, sunnudagsskólahald, eignir o. s. frv., sökum þess, að skýrslur frá nokkrum söfnuðunum hefði borizt sér svo seint.

þingið samþykkti, að skýrsla skrifarans væri látin bíða þangað til áframhald af henni kœmi.

þá var gengið að *kosning embættismanna* fyrir næsta ár, og var niðrstaðan sú, að séra Jón Bjarnason var kosinn forseti í einu hljóði, séra Björn B. Jónsson skrifari, Jón A. Blönnal féhirðir. Varaforseti var kosinn séra N. Steingrímr þorláksson, varaskrifari séra Jón J. Clemens, varaféhirðir Ólafr S. þorgeirsson.

Séra Jón Bjarnason þakkaði þinginu fyrir traust það og virðing þá, er það sýndi honum með kosningunni. Talaði séra Jón mörg hlý og uppörvandi orð til þingmanna.

Helgi Ásbjarnarson flutti forseta og þingi hlý ávarpsorð frá Mikleyjar-söfnuði.

Tillaga var borin fram af séra Jóni J. Clemens og studd af Gesti Jóhannssyni um að skrifara væri falið á hendr, að annast bókan fundargjörninganna og útgáfu þeirra á prenti.

Klemens Jónasson lagði til, að þetta væri látið bíða þangað til búið væri að ákveða, hvernig fundargjörningr skyldi bókaðr. Samþykkt.

Séra Jón J. Clemens lagði til, að umrœður væri ekki bókaðar nema að því leyti, sem nauðsynlegt væri til þess að gjöra rekstr málanna ljósan. Samþykkt.

Magnús Paulson bar fram þá breytingartillögu við frumtillöguna frá séra Jóni J. Clemens um prentan fundargjörninganna, að gjörðabókin væri birt í „Sameiningunni". Séra Jónas A. Sigurðsson studdi. Samþykkt.

þriðji fundr, sama dag kl. 8 e. m.

Fyrst voru sungin nokkur vers af sálminum nr. 398.

Varaforseti stýrði fundinum, en séra Jón Bjarnason flutti *fyrirlestr*, er auglýstr hafði verið á næsta fundi á undan. Umtalsefnið í fyrirlestrinum var

*mótsagnir.*

Fundarstjóri þakkaði síðan fyrirlesaranum fyrir það erindi með nokkrum orðum; var svo sungið nr. 540 og fundi slitið.

4. fundr, 22. Júní kl. 9 f. m.

Sunginn var sálmrinn nr. 507. Séra Friðrik J. Bergmann las 12. kap. í Hebreabréfinu og flutti bœn.

Allir á fundi nema féhirðir, Jón Blöndal (ókominn).

Gjörðabók frá 1., 2. og 3. fundi lesin upp og samþykkt.

Séra Jón J. Clemens bar fram svo látandi tillögu: „Að gjörðabók kirkjuþingsins sé útgefin í Júlí-númeri eða Ágúst-númeri „Sam." og að útgáfunefnd „Sam." sé borgaðr úr kirkjufélags-sjóði sá aukakostnaðr, sem þessi samþykkt hefir í för með sér." G. B. Björnsson studdi. En samkvæmt tillögu frá séra Birni B. Jónssyni var málinu frestað til óákveðins tíma.

Séra F. J. Bergmann lagði fram álit nefndarinnar, sem sett var til að íhuga ársskýrslu forseta og raða málum á dagskrá, svo hljóðanda:

Út af ársskýrslu forseta, sem vér vorum kosnir í nefnd til að yfirfara, leyfum vér oss að leggja fram svo látanda álit:

Fyrst af öllu viljum vér þakka drottni vorum, sem á náðarsamlegan hátt hefir verndað og leitt hið litla kirkjufélag vort á umliðnu ári og blessað hina veiku viðleitni vora langt um fram það, er vér áttum skilið.

Vér þökkum einnig forseta og varaforseta kirkjufélagsins fyrir hina ötulu og þýðingarmiklu starfsemi þeirra í þarfir kirkjufélags vors á liðnu ári.

Vér lýsum yfir ánœgju vorri yfir því, að svo margir nýir söfnuðir hafa myndazt á árinu, sem beiðzt hafa inntöku í kirkjufélag vort. Vér þökkum séra Rúnólfi Marteinssyni, missíónarpresti kirkjufélagsins á umliðnu ári, fyrir þann dugnað og þá sjálfsafneitan, sem hann hefir sýnt í starfi sínu, og álítum, að kirkjufélag vort hafi mikla ástœðu til að fagna yfir árangrinum.

Vér leyfum oss að mæla með því, að samtalsfundir verði haldnir framvegis í söfnuðum kirkjufélagsins og að við þá verði lögð meiri og meiri rœkt af prestum og leikmönnum.

Sömuleiðis vonum vér, að reformazíónarinnar verði framvegis minnzt í söfnuðum vorum og að samskot verði við það tœkifœri tekin hvervetna í kirkjunni, sem gangi í missíónarsjóð kirkjufélags vors, eins og víðast hefir átt sér stað að undanförnu.

Þau mál, sem vér ráðum til að sett verði á dagskrá þingsins, eru þessi:

1. Umsókn nýrra safnaða um inngöngu.
2. Missiónarmál.
3. Kirkjufélagið og General Council.
4. Skólamálið.

5. Sálmabókarútgáfa.
6 „Sameiningin“.
7. Sunnudagsskólamál.
8. Bókasafn skólans fyrirhugaða.
9. Ályktanir út af kristnitöku Íslendinga fyrir 900 árum.

Á kirkjuþingi, 21. Júní 1900.

F. J. BERGMANN, BJÖRN B. JÓNSSON.

Nefndarálitið samþykkt.

Fyrsta mál á dagskrá, *málið um inngöngu nýrra safnaða*, var þá tekið fyrir. Skrifari las upp bréf frá St. Jóhannesarsöfn. (N.-D.), Guðbrandssöfn., Lúterssöfn. og Alberta-söfn. þess efnis, að þeir óska að gjörast meðlimir kirkjufélagsins.

Séra Jónas A. Sigurðsson lagði til, að málinu væri vísað til nefndar, er íhuga skyldi lög og umsókn safnaðanna. Tillagan studd og samþykkt.

Forseti kvaddi í þessa nefnd þá séra Jón J. Clemens, Svein Sölvason og Sigbjörn S. Hofteig.

*Skólamálið.*

Magnús Paulson lagði fram svo hljóðanda álit og skýrslu skólanefndarinnar:

Séra Jón Bjarnason,
forseti hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi,
á kirkjuþingi í Selkirk, Manitoba.

Háttvirti herra forseti!

Vér undirskrifaðir, er kosnir vorum á kirkjuþingi að Hallson í Norðr-Dakota í Júnímán. 1899 sem stjórnarnefnd (Board of Directors) hins fyrirhugaða lærða skóla (Academy) kirkjufélagsins, leyfum oss hér með að leggja fram eftirfylgjandi skýrslu yfir starf vort, fjárhag skólasjóðsins o. s. frv., frá því á síðasta kirkjuþingi til þessa dags:

Stjórnarnefndin hafði fund með sér í Winnipeg hinn 11. Júlí 1899, til þess að ráðstafa ýmsum málefnum skólasjóðsins, rœða um skólastofnanina, o. s. frv. Og svo hafði hún aftr fund í Winnipeg hinn 1. Febrúar og 15. Júní 1900 í sama skyni.

Með sérstakri samþykkt veitti síðasta kirkjuþing (að Hallson) stjórnarnefndinni vald til að ráða því, hvaða skilyrði væri sett fyrir því, að hinum fyrirhugaða skóla (Academy) væri ákveðið heimili í Winnipeg, eða annarsstaðar, og leyfði nefndinni að leita eftir styrk handa skólanum, ákveða honum heimili og gjöra fleiri ráðstafanir viðvíkjandi stofnan skólans, ef henni sýndist. Í samrœmi við nefnda samþykkt gjörði stjórnarnefndin þá ályktan, á fundi hinn 11. Júlí 1899, að reyna að fá $6,000 styrk til skólastofnunarinnar í Winnipeg-bœ og annarsstaðar í Canada áðr en hún ákvæði honum (skólanum) heimili í Winnipeg. Síðan fól stjórnarnefndin tveimr meðlimum sínum að reyna að fá greindan styrk handa skólastofnaninni; en síðar tók annar þeirra, séra Björn B.

Jónsson, sérstaklega að sér að gjöra fjársöfnunar-tilraunina. Hann kom til Winnipeg í þessum tilgangi í síðastliðnum Janúar-mán., og varði hér um bil hálfum mánuði í tilraunir að fá hina ákveðnu upphæð til skòlastofnunarinnar. Á fundinum 1. Febrúar skýrði séra Björn B. Jónsson frá árangrinum af starfi sínu, og var hann sá, að einungis um $1.600 væri fengnir í allt í loforðum sem styrkr til skòlans, ef honum yrði ákveðið heimili í Winnipeg. Síðar fékk hann $250 í loforðum í viðbòt. Hann (séra B. B. Jònsson) lét það álit sitt í ljósi við nefndina, eftir að hafa talað við fjölda af helztu mönnum Winnipeg-bœjar um þetta mál, að ekki myndi verða hœgt að fá nema um $2,000 styrk hjá hinum ensku-mælanda hluta bœjarbúa; þeir vildi yfir höfuð ekki leggja mikið í sölurnar til þess að skòlinn yrði stofnaðr í bœnum, af því að þar væri nú þegar svo margir lærðir skólar. Sökum þess að íbúarnir í bœnum, sem talað var um að stofna skólann í, tóku svona dauft í málið, áleit stjòrnarnefndin ekki tiltœkilegt að kosta til að gjöra fjársöfnunartilraunir í austrfylkjum Canada. Af þessum ástœðum hefir nefndin ekki ákveðið skólanum heimili í Winnipeg, og engar ráðstafanir gjört til að löggilda skólastofnanina undir lögum Manitoba-fylkis. Stjórnarnefndin hefir ekki haft neina ástœðu til að álíta, að íbúar nokkurs annars bœjar, hvorki í Manitoba né Norðr-Dakota, sem tiltök væri að stofna skólann í, myndi fáanlegir til að veita skòlanum þann styrk, er nefndin teldi nœgilegan, og hefir þess vegna engar ráðstafanir gjört til að leita eftir styrk annarsstaðar en í Winnipeg í því skyni að ákveða skólanum þar heimili, o. s. frv.

Stjòrnarnefndin leggr fram á þessu kirkjuþingi nákvæmar reiknings-skýrslur um allt ástand skólasjòðsins. Jafnaðarreikningrinn sýnir, að skòlasjóðrinn er nú $6,048,91 að upphæð. Hann hefir aukizt $299.24 á fjárhagsárinu og kostnaðr hans var $59.90. Gjafir til sjòðsins á árinu voru að eins $11.00, og virðist òhjákvæmilegt, að þingið gjöri einhverjar nýjar ráðstafanir til þess að almenningr leggi fé í sjóðinn, svo hann vaxi meira. Að stjòrnarnefndin ekki hefir gjört neinar tilraunir til að safna gjöfum í sjòðinn meðal Íslendinga síðastliðið fjárhagsár orsakast af því, að það álit kom fram eindregið á síðasta kirkjuþingi, að slíkar tilraunir myndi árangrslausar þar til búið væri að ákveða skólanum heimili. Stjórnarnefndinni hefir tekizt að uppfylla þá òsk fyrri kirkjuþinga, að koma miklu af skòlasjoðnum í útlán gegn beztu fasteignarveðum og minnka fé það, er liggr í bönkum gegn vöxtum. Það er òhætt að segja, að sjòðrinn er eins vel tryggðr í heild sinni og unnt er með sjòð, sem lánað er úr gegn háum vöxtum.

(Framhald í næsta blaði.)



PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.